# Dagsbrún.

*Mánaðarrit til stuðnings frjálslegri trúarskoðun.*

I. | GIMLI, MAN. desember 1893. | 12.


## Hugleiðingar um ritninguna.

(Framhald).

VÉR höfum nú dregið fram fyrir sjónir lesendanna sýnishorn af agnúum þeim, sem eru á því, að trúa bókstaflegum innblæstri ritningarinnar. Hreinskilnir og sannleikselskandi fræðimenn hafa farið að rannsaka þetta, og því betr sem þeir hafa rannsakað það, því meira hafa þeir sannfærst um það, að svo búið dygði ekki lengr, það dygði ekki lengr, að taka þessa bók sem guðdómlega innblásna. En alt fyrir það, er það mjög títt, að klerkar og trúboðar skelli því um eyru mönnum, að vantrú á einn eðr annan ritningarstaðinn sé mönnum sjálfum að kenna, já, meira að segja, sé að kenna spillingu þeirra og vonsku; þeir geti trúað ef þeir vilji og vantrúin sé glæpr eða synd; en hver, sem fylgt hefir með því, sem að framan hefir sagt verið, hann hlýtr að sjá það, að þetta er ekki svo. Menn geta ekki trúað því, sem sönnu, sem menn sjá að ómögulega getr verið satt. Vér vitum t. d. að tvisvar tveir eru fjórir, þess vegna er oss ómögulegt að trúa því, að tvisvar tveir séu fimm. En það er einmitt það, sem guðfræðingarnir heimta af oss. Þegar menn því fara að lesa ritninguna með augunum opnum, og sjá það, að hún ber með sér hina sömu ófullkomleika og þjóðin, sem í fyrstu hafði hana fyrir trúbók sína, eða tímarnir, sem fram leiddu hana, þá er það ekki nóg, að óska sér þess, eða hafa löngun til þess, að geta skoðað hana, sem óskeikanlega. Oss kemr til hugar gömul saga þjóðversk: Presti einum var boðið

biskupsdæmi, ef hann gæti sannfærst um það, að sólin væri þrístrend. Hann fór að reyna, að hugsa sér sólina þrístrenda, og loks tókst honum, að geta hugsað sér það, að sólin hefði þrjár hliðar með þremr hornum, í stað þess, að áðr hafði honum einlægt sýnst hún vera kringlótt. Svo fékk klerkr sitt biskupsdæmi!!! En þótt þeir kunni að vera margir og séu eflaust margir, sem geti farið eins að og blessaðr prestrinn, hvað kenningu ritningarinnar snertir, þá er það þó mikill fjöldi manna og fer einlægt vaxandi, sem er það alveg ómögulegt. Þessir margföldu ófullkomleikar ritningarinnar, sem þegar hafa verið sagðir, og ótal fleiri, sem fram hjá hefir verið gengið, rísa upp fyrir sjónum manna, og hversu fastlega sem vér reynum til, að álíta þær guðdómlegar, þá verða vitleysurnar þó vitleysur, hórdómrinn verðr hórdómr, morðið verðr morð og ránið verðr rán.

En þessi stífni klerkanna, að lemja bókstafinn fram, er vissasti vegrinn, að hrinda mönnum út í *algjörða vantrú*, knýja þá til fjandskapar gegn *ritningunni, kristninni og kirkjunni*. Enda heyrist nú oft harmagrátr mikill til klerka og kennilýðs yfir því, að dygðirnar séu að dvína, að myrkr vantrúar og vítis sé að færast yfir þjóðirnar, að hinir mestu gáfumenn þjóðar hverrar, séu að snúa bakinu við kristninni, en þetta orsakast bersýnilega af þeirri stífni klerka, að heimta stöðugt af mönnum trúna á óskeikanlega ritningu, eða reka þá úr kristilegu félagi að öðrum kosti. En því eru mennirnir að halda fram þessari vitleysu? Er það virkilega ætlan þeirra, að steypa þannig sjálfum sér og eyðileggja málefni það, er þeir berjast fyrir? Er það mögulegt, að þeir geti ekki séð það, að þeir koma sér í þann vanda, sem þeir geta ekki ráðið fram úr: því að menn, sem lesa og hugsa sjálfir, hafa ekki önnr úrræði, en að snúa bakinu að kirkjunni, þegar svona er farið að, þegar sannleikrinn er svona fótum troðinn.

En í staðinn fyrir allar þessar mótsagnir og niðrlægjandi hugmyndir um Guð, getum vér fengið annað *sannara og betra*. Eða hvernig stendr á því, að kristnir menn skuli ekki geta séð það, að það er ekkert nauðsynlegt samband á milli mótsagnanna, villanna og hinna siðferðis spillandi staða í ritningunni, og hinnar siðferðislega fögru og andlegu kenningar hjá Esajasi, Páli og Kristi; ef að kirkjan að eins vildi kasta burtu þessari dulu, sem hún leggr fyrir augu sér, og sjá sjálf og lofa mönnum að skoða ritninguna eins og hún í sannleika er. Hætti þeir að eins við þenna gagnslausa remhing, að

berja það fram, sem enginn vill trúa, þeir hljóta að falla á því fyr eða síðar. Ef þeir væru fúsir að játa hiklaust allar villr, öfgar, ranghermi og mótsagnir, sem menn finna í þessari bók, þá geta þeir því betr haldið fram hinu hreina og fagra og ég vil segja guðdómlega í henni. Ef þeir segðu á þessa leið: „Vér heimtum ekki að nokkr maðr trúi því, sem ekki er hægt að trúa. Vér óskum þess eins heitt og nokkr annar, að finna alla galla ritningarinnar og villur, til þess að geta bent mönnum á þær og varað menn við þeim. Oss er mest um sannleikann að gera. Einkum liggr oss mest á hjarta hinn siðferðislegi og andlegi sannleikr, góð samviska og hreint hjarta, um það þurfa menn ekki að fara í deilur neinar, menn geta leitað þess hjá sjálfum sér.“ Þegar kennilýðrinn gerir þessa játningu, þá er deilunum lokið, þá er á enda hið látlausa erfiði þeirra, að velta þessu eilífa Sisyfusarbjargi, að rembast við að verja ritninguna staf fyrir staf, að snúast eins og hamhleypa um þennan og þennan ritningarstaðinn, toga og teygja hann á allar lundir eins og hrátt skinn, þangað til vit og skynsemi er rokið norðr og niðr í ginnungagap. Þá fyrst geta hin andlegu og siðferðislegu öfl sem kristnin ber í sér, farið að verka og borið blessunarríkan ávöxt.

Það er og engin meining í því, að halda ritningunni fram beint á móti og þvert ofan í alla *þekkingu og vísindi*. Hver maðr, sem nokkuð gætir skynsemi sinnar, hlýtr að sjá, að það dugar ekki, það er ekki til annars, en að afla málefninu og mönnum þeim, er því halda fram, hinnar mestu vanvirðu og fyrirlitningar. En ef menn hins vegar láta vísindalega skoðun og sannanir ná rétti sínum í trúmálum, sem öðru, þá hlýtr það að hafa ákaflega miklar afleiðingar, og það svo að þröngsýnum bókstafsmönnum getr nú tæplega komið það til hugar. Öll þessi hræsni og lygi og óhreinskilni, sem bókstafrinn fæðir af sér, allar þessar deilr og hatr og harðýðgi, sem hann ungar út, hlýtr þá að hverfa, en í staðinn koma bróðrlegt samband manna á milli. Það þyrfti þá ekki lengr að banna eina eðr aðra vísindagrein á skólunum, það væri ekki lengr verið að einangra og elta þá, sem eru svo hreinskilnir, að láta skoðanir sínar í ljósi, það væri þá ekki lengr verið að siga bróðr á móti bróðr og segja: „grýttu hann! grýttu hann! hann er trúvillingr.“ Guðfræðingarnir og vísindamennirnir þyrftu þá ekki lengr að liggja í hárinu hver á öðrum, ekki að draga með sér flokka manna og hleypa þeim saman, sem hönum í ati. Það

yrði þá meira farið að leggja stund á hið fagra, sanna, verulega, dygðuga, guðdómlega.

*Með því að hafna bókstafnum og guðdómlegum innblæstri gæti ritningin orðið leiðarsteinn til guðsríkis, hún tæki þá um leið ó-segjanlegum umbótum.* Þó að sumum kynni að finnast það myndi spilla henni, þá ei það ástæðulaust. Það er svo langt frá, að það, að stryka yfir bókstaf og innblástr, myndi spilla eða ónýta hinar æðri andlegu kenningar ritningarinnar, því það myndi einmitt gjöra mönnum þær aðgengilegri, kærari. Það væri eins og að blása á nýþreskt korn, svo að kornið, hin nærandi fæða verði eftir, en hismið og ruslið blásist burtu. Það mætti svo sem missa sig annað eins og bænir Davíðs í 109. sálminum, eða afreksverkin hans Samsonar, eða hinn hái aldr „forfeðranna," eða ósannindi Abrahams, er hann skrökvaði því, að Sara væri ekki kona sín, eða Jakobs, þegar hann skrökvaði að föðr sínum, eða sagan um Lot og dætr hans í hellinum, eða 15. kap. í 3. bók Mós., eða allar mótsagnir milli ritningarinnar og vísindanna, eða sögurnar um Jónas og hvalinn, eða sagan um það, er múrar Jeríkóborgar hrundu niðr við það, að blásið var í hrútshorn, og svo ótal margt þessu líkt, sem er svo langt frá að vera uppbyggilegt fyrir guðhræddar sálir, að það dregr úr allri guðrækni og svo er hitt, að menn eru að reyna til að bæta yfir þetta, finna því upp á allra handa orðkrókum og útúrsnúningum og þykjast með því hylja sig guðdómlegri speki, einkum þegar þeir skilja sjálfir ekkert í því, hvað þeir séu að fara.

Margir eru þeir, sem láta sér þetta *standa á sama, en það má ekki vera.* Það er ekki sama, hvort þessi bók, ritningin, sé guðdómlega innblásin eða ekki, það er ekki sama, hvort vér hugsum oss skaparann eins og hún lýsir honum. Það er búið að sýna það hér að framan, að ritningin sýnir oss Guð sem vandlætingasaman, afbrýðisaman, reiðan, ranglátan, grimman, hún hvetr mann til þeirra verka og skipar mönnum að vinna þau verk, sem hverjum ærlegum manni hryllir við, sem hver maðr mundi hika sér við að fremja, og það þótt hann væri ekki sérlega strangr í siðferðislegu tilliti. En sé ritningin guðdómlega innblásin, þá hlýtr alt þetta að vera satt um Guð; hann er þá eins og þessi innblásna bók lýsir honum. Þannig leiðumst vér út í það, annaðhvort að játa það, að skaparinn sé guðdómlegr harðstjóri, hann er vondr, en ekki góðr Guð, hann líkist

hugmynd þeirri, sem klerkar útbúa mótguð hans, djöfulinn, með eða vér hljótum að *neita guðdómlegum innblæstri*, og því að eins að vér gjörum það, þá getum vér hugsað oss skaparann góðan og fullkominn. Hver er nú sá, að hann sjái ekki, hver skoðunin er guðrækilegri og skynsamlegri? Vissulega ættum vér að sjá það, að á oss hvílir sú kristileg skylda, að neita þeirri kenningu, sem svívirðir veru þá, er vér tilbiðjum og grefr undan vorum bestu siðferðislegu hugmyndum. Vér ættum að sjá það, að hér er í veði hið æðsta og helgasta í trú og lífi manna. Ef vér því hirðum nokkuð um trú, þá megum vér ekki hika oss, þegar vér rekum oss á eitt eðr annað í ritningunni, er svívirðir og niðrlægir Guð, þá verðum vér að segja það hreint út, án þess að fara í neinar felur með það, að þetta sé rangt. Þessir menn sem skrifuðu þetta voru gagnsýrðir af lágum og ófullkomnum hugmyndum samtíðar sinnar; vér, sem nú í dag stöndum í ljósi því, er skín af Kristi yfir átján aldir, í ljósi fullkomnari þekkíngar, meiri mannúðar, vér skulum dýrka guð þann, sem er miklu æðri, fullkomnari og betri, en Guð sá, er þessir gömlu söguhöfundar draga málverk af.

Í ritningunni sjáum vér og að mönnum er liðið, meira að segja skipað, að gera það, *sem er siðferðislega rangt*. En alt þetta verðr meinlaust og skaðlaust, ef vér lítum með *skynsemi á ritninguna*, sem bók þá, er vér höfum erft lengst ofan úr öldum, og hafi inni að halda marga spaka og göfuga hugsun hinna fyrri manna, en eins og eðlilegt er einnig optlega ófullkomnar siðferðishugmyndir, er menn á vorum tímum eru vaxnir frá. En ef vér lítum á hvað eina í ritningunni, sem innblásið af Guði og óskeikanlegt, þá eru þessi grimmdarfullu boð og óheiðarlegu hugmyndir ritningarinnar langt frá því að vera óskaðlegar, því þá eru þær í hæðsta máta siðferðisspillandi, eyðileggjandi mannúð, guðsdýrkun, alla sanna framför og kærleika manna á meðal.

*Kenningin um óskeikulleika ritningarinnar er niðrdrepandi fyrir hina sönnu dygð*, einkum hjá æskulýðnum. Menn eru nú loks farnir að sjá það, og hinir vitrustu og bestu menn vorra tíma eru einlægr betr og betr að sjá það, að tæplega sé nokkuð meira eyðileggjandi sanna dygð, en það, að kirkjan stendr fast á því, að siðafræði gamla Testamentisins sé í alla staði góð og gild, því hún er svo fjarri því að vera það, sem nokkuð getr verið. Enginn fordómslaus

maðr mundi segja það. Jafnvel þeir, sem fastast halda því fram, mundu hiklaust játa galla hennar og telja hana óhafandi, ef þeir finndu hana í einhverri annari biflíu heimsins, svo sem Vedabókunum eða Zend-Avesta. En hví eru menn þá að halda þessu fram? Menn ættu þó að sjá, að það hlýtr að gjöra ákaflega mikið ilt. Hugsum til ungbarnanna ganga á sunnudagaskólana millíónum saman, þau hafa ofr sveigjanlega lund og þeim er kennt sunnudag eftir sunnudag árum saman annað eins og það, að það hafi verið rétt af Jósúa að slátra körlum, konum og börnum, rétt af Jehú að myrða alt Ahabs hús, rétt af Hósea að brjóta 7. boðorðið, rétt af Móses og Aron að ljúga að Pharaó, rétt af Gyðingum að grýta galdrakonr í hel, halda þræla og því um líkt, þetta alt átti guð að skipa þeim að gjöra. Þegar börnunum er nú kent þetta á sunnudagaskólanum, hvaða grundvöll ætla menn nú að þetta leggi hjá börnunum? Hvernig er hægt að byggja á þessari undirstöðu ást til dygðarinnar, næma samvisku eða göfugan og mannúðarfullan hugsunarhátt hjá konum eðr körlum. Getr nokkuð vegið upp móti öllum þessum ruglingi og umsnúningi á siðferðishugmyndum æskulýðsins. Getum vér vonast eftir öðru, en að börn, sem þannig eru uppfrædd hafi bæði lágar og skakkar hugmyndir um rétt og rangt, hafi sljófgaða samvisku og óvirðulegar hugmyndir um Guð, er þau vaxa upp, sem þroskaðir karlar eða konr?

Nei! sannarlega hljótum vér að gjöra mun á göfugu og ógöfugu, sönnu og röngu, ef vér viljum hafa not af ritningunni. Vér getum aldrei gjört of mikið úr hinum auðugu fjársjóðum siðferðislegra og trúarlegra sanninda, er vér getum lesið í þessari æruverðu bók, en vér megum og gæta þess, að vera eigi þeir glópar, að taka gallana, villurnar, ósannindin sem guðdómlegan sannleika, af því þessu er blandað saman við það, sem betra er og sannara og æðra. Vér getum gjarnan haft ritninguna á sunnudagaskólunum og í kirkjunum og í heimahúsum vorum. sem í vissum skilningi heilaga bók, til þess að lesa hana með virðingu, og velja úr henni það, sem gott er fyrir oss og börn vor, en vér megum þá líka gæta þess, að láta hana ekki verða oss til bölvunar í staðinn blessunar, síst af öllu mætti hún verða börnum vorum til bölvunar, en sem hún bersýnilega yrði, ef hún væri tekin sem óskeikanlegr innblástr Guðs. (Framh.)

---

# Athuganir við sköpunarsöguna.

## XI.

### *Sálin.*

Vér höfum nú fylgt sköpuninni upp að líkama mannsins, en þó nær hún miklu æðra stigi í sköpun sálarinnar. Gamla hebreska sagan setr manninn á hæðstu tröppu og segir hann skapaðan í „Guðs mynd“ og að „hann eigi að drottna yfir öllum dýrum jarðarinnar.“ Skulum vér nú athuga þetta nákvæmar.

Strax á eftir sköpunarsögunni í ritningunni er önnur saga með alt öðru hljóði og alt öðrum uppruna, lýsir frásaga sú ástandi hinna fyrstu manna. Eftir þeirri sögu voru þeir langt frá því að vera gæddir andlegri og líkamlegri fullkomnun, eins og guðfræðin segir, og voru lítið betr á sig komnir en dýrin. Líkami þeirra var nakinn, þau höfðu ekki bragðað ávöxtu þekkingarinnar, og hið eina, sem sagan getr um veru þeirra í Paradís, er það, að þau töpuðu því. Þau voru á lágu siðferðisstigi, kunnu ekki að gera greinarmun góðs og ills, þau voru háð fýsnum sínum, þau eru látin fara að eta sér til falls, og svo er maðrinn svo auðvirðilegr, að hann skellir allri skuldinni á konuna. Trú þeirra var ekki annað en ótti, þau voru að fela sig meðal trjánna, að fela sig fyrir Guði, sem „fór um kring í aldingarðinum í dagsgolunni“, sem lét höggorminn leika á sig, og lýsti bölvun yfir sinni eigin sköpun. Viltir voru þeir þá einlægt, þessir fyrstu menn, og það komust þeir hæðst, að búa sér til mittisskýlur af fíkjublöðum, áðr en skaparinn gjörði þeim skinnkyrtla. Hinn frumgetni sonr þeirra var morðingi og yfir höfuð svo vondr og spiltr, að Guð iðraðist, að hafa skapað manninn og lét loksins syndaflóðið eyðileggja alla mennina á jörðunni nema Nóa og sonu hans!!

Hinir fyrstu menn hafa vafalaust verið fult svo ófullkomnir og hér er lýst; — hafa má ske fyrst komið fram í aldingörðum hitabeltisins, í hinum frjófsömu fljótsdölum, innan um aldinskógana, sem voru „fagrir á að líta og góðir að eta af.“ — En villimenn á lægsta stigi hafa þeir verið, naktir eða með mittisskýlur af laufblöðum, eins og Schweinfurth sá þá í Afríku, þeim hefir fundist erfiðið plága og jörðin bölvuð, þeir hafa haft dýrslegar fýsnir, verið grimmir og þekkingarlausir og trú þeirra ekki verið annað, en ótti fyrir guðum, sem

voru eins auðvirðilegir og þeir sjálfir. Lengi hafa þeir verið í þessu vilta ástandi, hafa týnt ávextina af trjánum, eða grafið rætur úr jörðunni, og drottnun þeirra yfir jörðunni og öllum dýrum, hefir að eins verið drottnun veiðimannsins yfir fiskum, fuglum og veiðidýrum, sem þeir kann ske gáfu nafn og drápu sér til fæðu.

En þegar þeir fóru að læra, að eta af skilningstrénu góðs og ills, ekki að eins í eitt skifti, heldr daglega og með sívaxandi ílöngun, þá mistu þeir þetta letifulla sæluástand dýrslegrar ánægju, þeir fóru að reyna erfiði og mæðu, en *ekki til þess að falla*, heldr til þess að hefja sig á hærra og hærra stig. Þeir lærðu bæði að verða „herrar" yfir öllu og einnig, að skapa, eða búa til eitt og annað handa sjálfum sér, og sýna þannig betr og betr, að þeir voru „skapaðir í Guðs mynd."

Vér höfum ekki rúm til þess, að fara mörgum orðum um þessar framfarir. En vér skulum byrja neðst og halda svo upp eftir og sjá, hvernig maðrinn hefir einlægt lyft sér með stöðugri baráttu og þraut á hærra og hærra stig.

Fyrst urðu mennirnir að berjast við dýrin um ákaflega langa tíma, en smátt og smátt fóru þeir að sjá, að betra var að temja þau, og þá stigu þeir á æðra stig, hjarðmannastigið. Í stað þess að deyða villidýrin sér til matar, lærðu menn að temja þau, gátu þeir þá haft þau til fæðu, þegar þeir vildu, eða látið þau á ýmsan hátt vinna fyrir sig. Menn tömdu og hirtu heilar hjarðir, til þess að fæða sig og klæða, en úlfinn tömdu þeir til þess að gæta þeirra. Menn náðu úlfaldanum til þess að bera byrðar, hestinum til þess að ríða og fuglunum til þess að flytja orðsendingar. Þeir létu skepnurnar aukast og margfaldast eftir eðli sínu, og í dag hljómar hið gamla sköpunarorð: „leiði vötnin fram" yfir vötnum og fljótum, og arðlaus vötn og tjarnir og lækir eru fylt með fiski. Þannig fjölga menn hinum gömlu dýrum og mynda jafnvel nýjar tegundir þannig, að menn gjöra nautin og sauðfénaðinn stærri og feitari, hestana fljótari og fuglana fegurri; og hefðu menn að eins nógu langan tíma mundu menn geta skapað nýjar tegundir eftir geðþótta sínum.

Svo fór maðrinn að gefa sig við plöntusköpuninni, áðr var hann hjarðmaðr, en nú varð hann jarðyrkjumaðr, og auk þess, að tína plöntur og fræ og ávexti, þá lærði hann nú að gróðrsetja þetta, að rækta jörðina og gjöra sér blessun úr hinni ímynduðu bölvun hennar.

Yfir hinum grýttu hæðum og þurru sandauðnum mælti hann hið skapandi orð: „Láti jörðin af sér spretta græn grös og jurtir hafandi sæði í sér og ávaxtarsöm tré, svo að hvert beri ávöxt eftir sinni tegund.“ Maðrinn bjó nú til nýjar tegundir, þannig, að hann breytti villigrösunum í frjófsamar kornstangir og hinum „bölvuðu þyrnum og þistlum“ sögunnar gömlu í ljómandi fögr blóm, til að skreyta garða sína með blómstrum og ávöxtum. Í staðinn fyrir að vera rekinn út úr Eden, þá lærði hann smátt og smátt, að breyta veröldinni allri umhverfis sig í verulegt Eden.

Jafnframt þessu hafði hann fylgt hinni fyrri sköpun og innan undir loftþakinu bygt skýlla þak yfir hús sitt og heimili. Hann lærði og að breyta loftinu í eld, eins og náttúran gjörði í hans eigin líkama, og auk eigin hita líkama hans bjó hann til meiri hita á arinstónni, svo að hann gæti boðið byrginn vindi og veðri. Hann lærði jafnvel að hagnýta sér hið eitraða kolefni eldsins í hans eigin líkama og á arinstónni. Hann sameinaði það við kalk, eins og á tímum jarðmyndunarinnar, hann herti með því kalksteypu sína og bjó hlýrri húsveggi úr marmaralögum. Eldinn fékk hann fyrst að líkindum lánaðan úr eldfjöllunum eða frá eldingunni, en seinna lærði hann að búa hann til, nær sem hann vildi. Áðr fyrrum var eldrinn skapaðr með þrýstingu á sólina, en maðrinn lærði að búa hann til fljótara með því að slá á tinnu eða nugga saman spítum, og loks með því, að núa lítið fosfórstykki á spítuenda. Það er því ekki að undra, þótt villimaðrinn telji það „hið mesta kraptaverk síðan sköpunin hófst, að menn skuli í eldspítu einni geta borið leyndardóm eldingarinnar og eldfjallsins í vasa sínum, og látið hana blossa upp eptir vild. Með háum skorsteinspípum og sterkum belgjum hafa menn og á listfengan hátt látið eldinn loga betr í smiðju og ofni. Þá leysti maðrinn upp klettana og bræddi málmana og hóf sig frá Eden — eða sæluástandi steinaldartímanna til eir- og járn- og stál-aldarinnar.

Yfir vötnunum fór maðrinn og að ríkja, eftir að þau höfðu „safnast saman“ í sinn stað. Hann fór að láta árnar flytja fleka sína og fljótin vinna fyrir sig, láta þau mala, saga, vefa, og í stað hinna gömlu skinntjalda komu skrautleg timbrhús. Í stað þess að kvennfólkið var látið mala korn til fæðu handa heimilinu með miklu erfiði, í steinkvörn, allan daginn, komu millurnar stóru, er mala korn handa heilum ríkjum; í stað fíkjuviðarblaðanna í aldingarðinum Eden,

komu verksmiðjur, er unnu dúka mílum saman á lengd. Maðrinn drottnaði þannig yfir vötnunum, sem „saman höfðu safnast“ og eins með því, að sundra þeim. Hann lét vatnið í loftinu, gufuna, vinna fyrir sig; hann setti gufuna í aktygi og lét hana draga vagnalestir yfir löndin og knýja áfram gufuskipin yfir höfin.

Maðrinn seildist enn lengra aftr til sköpunarinnar. Hann lærði ögmálið fyrir kristallamyndun og samsetning efnanna. Af sandhaugum bjó hann til plötur af gleri, stærri og gagnsærri en kvartsinn. Í efnafræðinni lærði hann, að leysa upp hin samsettu efni í frumefni sín, og steypa þeim svo saman að nýju. Af þessari efnasköpun lærði hann, að fá vald yfir líkama sínum, að láta menn, nær sem vildi sofna eins föstum svefni og Adam gamla í sögunni, að taka úr manninum bein og rif án nokkurs sársauka og setja önnur ný í þeirra stað. Í læknisfræðinni lærði hann að lækna og hjálpa, „að útrétta hönd sína og taka af lífsins tré“ og lengja þannig æfina á jörð þessari, og það, sem var enn þá betra, hann lærði, að gjöra lífið lengra og til. komumeira með sívaxandi þekkingu og sívaxandi valdi yfir náttúrunni. Lítum t. d. á hvað hann hefir gjört við hina fyrri sköpun ljóssins. Hann hefir leitt það gegnum gluggarúður sínar, og látið það uppljóma hús sín. Af glerinu gerði hann haglega sjónauka til að margfalda ljósið. Með gleraugum styrkir hann sjónina, þegar hún fer að daprast. Það má segja að hann hafi skapað ný augu, sjónpípur til að sjá hundraðfalt lengra, en með berum augum, og stækkunargler, er stækka tíu þúsund sinnum eða meir, og þannig getr hann séð uppi og niðri endalausa undraheima. Hann hefir gjört prismið, sem leikfang og síðan breytt leikfanginu í „spectroskop“ (litmælir) er sýnir hlutina miklu nákvæmar, en stækkunarglerið, seilist enn lengra, en stjörnukíkirinn, dregr stjörnurnar af himni ofan, og segir oss, af hvaða efnum þær séu gjörðar. Þannig hefir hann haldið áfram og neytt ljósið til að vinna öll þessi verk frá því að bleikja léreft, til þess að mála myndir. Hann skapar einnig ljósið, einlægt bjartara og ódýrara. Hann hefir jafnvel lagt höndur á þrumufleyginn, er sálmaskáldið hélt, að væri ímynd hins reiða Guðs, og hefir lært, að stýra honum og búa hann til og láta hann lýsa, sem lampa í stað sólarinnar, þannig gjörir maðrinn dag úr myrkrinu og endrtekr um allan hnöttinn orðin gömlu „verði ljós.“

Þannig sjáum vér, hvernig maðrinn drottnar yfir jörðinni, hann

seilist yfir skýin, vegr sólkerfið og les rúnir þess. Þetta er sköpun sálarhæfileikanna, og þetta heldr einlægt áfram og það óðfluga. Mest af þessu hafa menn uppgötvað á þessari öld. Sálarhæfileikar mannsins virðast óþrjótandi og einlægt sést það betr og betr, að „hann er í guðs mynd skapaðr“.

(Niðrlag næst).

---

## DÓMR KIRKJUFEÐRA OG HELGRA MANNA UM KONUNA.

---

Hinn heilagi Bernhard segir:

„Konan er verkfæri djöfulsins.“

Hinn heilagi Antonius segir:

„Konan er armr djöfulsins — hennar málrómr er blástr höggormsins.“

Hinn heilagi Bonaventura segir:

„Konan er skorpión, æfinlega reiðubúin að stinga; hún er lensa djöfulsins.“

Hinn heilagi Cyprian segir:

„Konan er verkfærið, sem djöfullinn brúkar til að ná sálum vorum í eign sína.“

Hinn heilagi Jeróme segir:

„Konan er vegr djöfulsins; hlið ranglætisins; eitrstunga skorpíónarinnar.“

Hinn heilagi Damasken segir:

„Konan er dóttir lyginnar; varðmaðr helvítis; óvinr friðarins; fyrir hana misti Adam Paradís.“

Hinn heilagi Krysostomus segir:

„Fyrir konuna hefir djöfullinn hrósað sigri; fyrir hana var Paradís mist; hún er hættulegust af öllum villidýrum.“

Hinn heilagi Gregorius (mikli) segir:

„Í konunni er eitr höggormsins — grimd og ofsi hins mikla dreka.“

Á fjórðu öld var haldið guðsmanna þing til úrlausnar því spursmáli, hvort konan bæri að álítast mannleg vera eða ekki.

[„Pictorial Text Book,“ síðu 90.]

---

## ☞ AFSÖKUN. ☜

Ritstjórinn verðr að biðja lesendr „DAGSBRÚNAR“ afsökunar á prentvillum, sem verið hafa í henni. Ég hefi oft ekki getað lesið prófarkir sjálfr, þar eð ég þá hefi verið einhversstaðar fjarri prentsmiðjunni, er ritið var að koma út. Þannig var því varið er nr. 11 kom út, í því er ljótasta prentvillan að ég hygg: „són“ fyrir „eón“ á bls. 174 og 175.



Útsölumenn blaðsins biðjum vér svo vel gera, að endrsenda það af blaðinu, sem þeir hafa ekki von um að seljist.

Hve nær sem kaupendr að „Dagsbrún“ skifta um bústað, eru þeir vinsamlega beðnir að senda skriflegt skeyti um það til G. M. Thompson

☞ *G. M. Thompson, er „business manager“ og féhirðir fyrir blaðið.*


„DAGSBRÚN“ kemr út einu sinni á mánuði hverjum, verð $1.00 um árið í Vestrheimi; á Íslandi Kr. 2.00, greiðist fyrir fram. Send til Íslands en borguð hér $0.75.——Skrifstofa blaðsins er hjá Magn. J. Skaptason, Gimli, Man. Canada.

*Ritstjóri: MAGN. J. SKAPTASON.*

*Prentað hjá G. M. Thompson—Gimli.*